# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

## Fram til III. landsþings Eik (m-l)

Sjá leiðara

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L) 3. ÁRGANGUR 8. TBL. 16. ÁGÚST - 5. SEPTEMBER 100 kr.



# Gegn Sovétríkjunum 21. ágúst

21. ágúst-nefndin var stofnuð 16. júlí s.l. í þeim tilgangi að gangast fyrir mótmælaaðgerðum gegn hersetu Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu sem varað hefur í 9 ár og einnig voru samþykkt kjörorð gegn yfirgangsstefnu risaveldanna - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. (Nánar um kjörorð nefndarinnar og nefndina sjálfa í grein á bls. 2). Sunnudaginn 21. ágúst n.k. mun nefndin efna til innifundar á kjörorðagrundvelli sínum og verður fundurinn nánar auglýstur í fjölmiðlum. Verkalýðsblaðið hvetur alla lesendur sem það geta að fjölmenna á fundinn og rétta alþýðu Tékkóslóvakíu hjálparhönd í baráttu hennar gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna og leppa þeirra.

Samtök herstöðvaandstæðinga efna til mótmælastöðu 21. ág., en þar er vandlega passað að minnast hvergi á Sovétríkin, því það gæti hvekkt Sovétvinina sem finnast í Alþýðubandalagi og Fylkingunni. Samtökin skipuleggja nákvæmlega ekkert áróðursstarf fyrir þessar aðgerðir sínar og Þjóðviljinn svo gott sem þegir yfir þeim. Það er stefnt að fámennum aðgerðum - aðeins í þeim tilgangi að halda andliti gagnvart herstöðvaandstæðingum sem farnir eru að sjá í gegnum glansmyndina af Sovétríkjunum og kynnast hinu raunverulega eðli þeirra.

Allir raunverulegir andheimsvaldasinnar fylkja sér því undir merki 21. ágústnefndarinnar 21. ágúst n.k.!

## Fjölmennum á fund 21. ág.-nefndar!

### Mikilvægur sigur nema í Landssmiðjunni:

# NÁÐU 14-25% HÆKKUN OFAN Á JÚNÍ SAMKOMULAGIÐ

Iðnnemar eru í hópi lægst launaðasta verkafólks á Íslandi. Ýmsir tilburðir hafa þó verið hafðir í frammi í röðum iðnnema til að breyta þessu og berjast fyrir bættum kjörum. Stundum hefur árangur náðst, stundum ekki. Einkennandi er þó að flest félög iðnnema og heildarsamtök þeirra, Iðnnemasamband Íslands (INSÍ), eru sama marki brennd og flest önnur verkalýðsfélög og samtök: starfsemin í algeru lágmarki og jafnvel minni en það og slagkraftur félaganna er því lítill. ASÍ-forystan hefur reynt með bærilegum árangri að hafa ráð iðnnema á miðstjórnarvaldi sínu og forystumenn iðnnema hafa látið ASÍ-forystunni eftir að "berjast" fyrir hönd iðnnema - auðvitað á klíkufundum í glæsisölum Loftleiðahótelsins. Árangurinn er líka í samræmi við þetta.

En það sannast hvað eftir annað að baráttustefna verkalýðs er það vopn sem færir árnagur, hvort sem um er að ræða einstaka vinnustað eða stærri heild. Dæmi um þetta er t.d. árangursrík kjarabarátta járniðnaðarnema í Landssmiðjunni á dögunum.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hitti að máli einn þeirra og bað hann fyrst lýsa ástæðunum fyrir því að þeir tóku upp baráttu fyrir bættum kjörum á eigin vinnustað - án afskipta síns stéttarfélags.

- Það er margt sem ýtti undir. Í fyrsta lagi fengum við ekki umtalsverða leiðréttingu okkar mála í kjarasamningunum. Ég bendi líka á að undirbúningur samninga og samningavafstrið sjálft var með endemum og ólýðræðislegt með öllu. Kröfur INSÍ í samningunum voru t.d. aldrei bornar undir okkur og fæstum var því ljóst um hvað samningarnir snerust. Þegar þeir höfðu verið undirritaðir, voru þeir svo ekki bornir undir félagsmenn og það hefur enn ekki tekist að fá stjórn Fél. járniðnaðarnema til að kalla saman fund um kjarasamningana! Við töldum okkur því eðlilega alls ekki bundna þessum samningum að neinu leyti.

Frh. á baksíðu

## Hvar stöndum við að loknum kjarasamningum

# Það saxast á 18 þúsundin!

Svo fór sem fyrr, að verðhækkanir dundu yfir í kjölfar júnísamkomulagsins og stöðugt hefur því saxast á 18 þús. kr. hækkunina, sem ASÍ ætlaði víst verkafólki til að bæta sér fyrirfram upp verðhækkanir sem kjarasamningarnir myndu leiða af sér, en ekki eingöngu til að bæta að nokkru gengdarlaust kauprán á gildistíma gömlu samninganna! Þannig hefur bensín hækkað sem svarar 1500-2000 kr. á mánuði fyrir meðalfjölskyldu, dagvistargjöld hækkað um 3000 kr. á mánuði, matur á veitingahúsum hefur og hækkað (kemur misjafnlega niður á fólki) og síðast en ekki síst hefur allt viðhald bíla hækkað stórlega. Samtals hefur þá strax fokið drjúgur hluti kauphækkunarinnar vegna hækkunar fyrrnefndra liða, eða a.m.k. kr. 5000. Samkvæmt spá "Þjóðhagsstofnunar" munu verðbætur 1. sept. n.k. væntanlega verða kr. 4000, miðað við lægsta kaup (88 þús. kr. á mánuði), eða um kr. 880 fyrir hvert stig, sem "verðbótavísitalan" hefur hækkað frá 1. maí 1977.

Nú er í fjölmiðlum talað um "hlé á verðhækkanaskriðunni", en það er aðeins logn á undan storminum. Í september mun ný holskefla verðhækkana ríða yfir, m.a. hefur Landsvirkjun heimtað stórhækkun raforkuverðs o.fl. Þessi þróun er ekkert "undrunarefni" fyrir ASÍ-páfana; upp á þessi býti sömdu þeir - meðvitað!

Hér verður í stuttri grein fjallað stuttlega um verðbólgupólitík auðvaldsins og baráttuna gegn kaupráninu.

Afturhaldinu hefur tekist að nokkru að læða þeirri trú að fólki að nokkuð sem hagspekingar kalla "víxlhækkun verðlags og kaupgjalds" sé óhjákvæmilegur fyrirburður. Með þessa falsspeki sem skjöld og þjóðfélagsvöldin að vopni, eyðileggur auðstéttin launahækkanir hverra kjarasamninga á fætur annarra. Aðeins nokkrum dögum eftir undirskrift smánarsamninga ASÍ og atvinnurekenda í vor, samþykkir ríkisstjórnin fyrstu hækkanir, á útseldri vinnu, þjónustu, ýmsum vörutegundum, bensíni o.fl. Hækkanir þessar verða að engu bættar verkafólki og atvinnurekendur og ríkisvaldið taka aftur það sem þeir hafa orðið að greiða verkafólki af gróða sínum, og líklega meira til, og svo er verkalýðurinn sakaður um að valda verðbólgunni!

Frh. á baksíðu

# ASÍ krafið skýringa á störfum „fastanefndar"

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hefur sent Alþýðusambandi Ísl. bréf varðandi "fastanefnd" atvinnurekenda og ASÍ, sem blaðið sagði frá í síðasta tbl. Bréfið er svohljóðandi:

"Alþýðusamband Íslands,
c/o Snorri Jónsson, frkstj.,
Reykjavík.

Við undirritun aðalkjarasamnings ASÍ og atvinnurekenda í júní s.l., var og undirrituð yfirlýsing varðandi "fastanefnd aðila sem starfa mun á samningstímanum, með líkum hætti og áður". Hvernig sem á því stendur, þá hefur nefnd þessari ekki verið hampað mikið af ASÍ-forystunni á opinberum vettvangi. Er þó að sjá af verkefnaskránni sem nefndin hefur, að engin smámál séu þar til umfjöllunar: t.d. "setning reglna um gerð kjarasamninga"; "samningur um vaktavinnu"; "rammasamningur um gæðamatskerfi, þar sem unnin er ákvæðis- og bónusvinna", o.fl.o.fl.

Í framhaldi af þessu mælumst við til þess að eftirfarandi spurningum um "fastanefnd" verði svarað SKRIFLEGA sem allra fyrst:

1. Hvenær var nefndin sett á laggirnar, hver átti frumkvæðið að því og hverjir hafa setið í nefndinni fram til þessa?

2. Í hverju hefur starf nefndarinnar verið fólgið, t.d. fyrir gerð kjarasamninga? Hefur hún skilað niðurstöðum/álitum sem Verkalýðsblaðið getur fengið aðgang að til úrvinnslu og birtingar?

3. Liður 5 í starfsskrá "fastanefndar" kveður á um að nefndin skuli fjalla um "setningu reglna um gerð kjarasamninga". Hefur verið fjallað um þennan lið og ef svo er, hverjar hafa tillögur ASÍ-fulltrúa þar að lútandi verið?

Reykjavík 6. ágúst,

Albert Einarsson,
ábyrgðarmaður."

18 þús. kr. kauphækkunin frá í júní hefur rýrnað stórlega vegna sífelldra verðhækkana - þrátt fyrir allar fögru yfirlýsingarnar um ágæti kjarasamninganna! ASÍ-forystan gæti sparað sér lýsingarorðin - innihaldið í launaumslögunum er besti vitnisburðurinn um ágæti samninganna.






Á stuttum starfstíma sínum, frá janúar 1975, hafa EIK(m-l) sýnt að samtökin eru fær um að vera forystuaflið í uppbyggingu nýs verkalýðsflokks á Íslandi - kommúnistaflokks.

Samtökin ráða nú yfir marx-lenínískri langtíma- og skammtíma baráttustefnu. Verkafólk og byltingarsinnar öðlast smám saman traust á þessari stefnu og samtökunum. Fyrstu andstöðuhóparnir gegn svikaforystu ASÍ sjá dagsins ljós.

EIK(m-l) hafa staðið í baráttu meðal fjöldans, í mjólkurbúðabaráttunni, í Landhelgissamtökunum, í Dagvistarsamtökunum, í herstöðvabaráttunni gegn risaveldunum tveimur, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, og nú síðast í kjarasamningunum.

Samtökin hafa átt frumkvæði að stofnun sífellt virkara útgáfufyrirtækis, OKTÓBER-forlagsins sf, og gefa út VERKALÝÐSBLAÐIÐ í allstóru upplagi, sem hlotið hefur góðar viðtökur. Blaðið verður hálfsmánaðarblað frá 1. september n.k.

Í baráttunni gegn hættulegri sundrungu framsækinna afla og gegn falsmarxisma og endurskoðun á marx-lenínismanum/kenningum Maó Tsetungs hafa EIK(m-l) náð verulegum árangri. Upphlaupalið Fylkingarinnar lendir í æ sterkari mótvindi og afhjúpast sem þjónar ASÍ- og Alþýðubandalagsforystunnar. Hinn falski "Kommúnistaflokkur" bíður hvert skipbrotið á fætur öðru og er nú aðeins getulaus smáhópur.

Ástandið er því hinni endurvöktu en ungu kommúnísku hreyfingu mjög hagstætt.

EFLUM FJÖLDASTARFIÐ!

Síðasta landsþing EIK(m-l) í janúar 1976 var hvað mikilvægast fyrir þær sakir að þar hófst veruleg leiðréttingarherferð gegn röngum stefnu- og starfsháttum innan samtakanna. Mörgum leifum hægri hentistefnu var útrýmt og herferðinni lauk í bili s.l. haust.

# FRAM TIL III. LANDSÞINGS EIK(m-l)!

Á landsþinginu 1976, sem var hið II. í röðinni, var líka gerð samþykkt um undirbúningsstarf að stofnun kommúnísks flokks og um einingu ísl. kommúnista. Samþykktin áréttaði réttar forsendur einingar með KSML, en KSML höfnuðu samþykktinni. Hún hefur síðan sýnt sig vera góður bakhjarl í baráttunni gegn KSML og síðan "KFÍ/ML".

Miðstjórn EIK(m-l) hefur ákveðið að kalla saman III. landsþing samtakanna fyrri hluta árs 1978. Þar verður afgreidd uppbyggingaráætlun fyrir kommúnistaflokkinn, altæk stefnuskrá EIK(m-l) til að starfa samkvæmt á uppbyggingarskeiði flokksins og nýjar starfsreglur og lög EIK(m-l).

Þingið verður því afgerandi skref til stofnunar forystuflokks íslensks verkalýðs og annarrar alþýðu.

Allir félagar EIK(m-l), stuðningsmenn samtakanna og allir sem í raun vilja stuðla að stofnun raunverulegs verkalýðsflokks, verða að gera átak fyrir III. landsþing samtakanna 1978. Helstu þættir þess eru:

1. Efla verður starf EIK(m-l) meðal fjöldans, aðallega með auknum áróðri fyrir marx-lenínismanum/kenningum Maó Tsetungs og baráttustefnu í mikilvægum málum.

2. Efla verður VERKALÝÐSBLAÐIÐ með söfnun fjár til nýrrar prentsmiðju blaðsins, með söfnun áskrifenda, sem eru máttarstólpar blaðsins, og með aukinni lausasölu í íbúðahverfum og á vinnustöðum.

3. Styrkja þarf starf EIK(m-l) í stéttarfélögum og öðrum samtökum fjöldans sem EIK(m-l) starfa í að svo komnu máli.

4. Efla verður námsstarf EIK(m-l) - leshringi í marx-lenínismanum - og afla margra nýrra félaga.

FRAM TIL III. LANDSÞINGSINS!

EIK(m-l) brýna enn einu sinni fyrir lesendum blaðsins að þjóðfélagsþróunin er ekki sjálfvirk. Til þess að ná málum sínum í höfn verður verkafólk og önnur alþýða að berjast fyrir hverjum áfangasigri jafnt sem sjálfum þjóðfélagsvöldunum. Þess vegna verður hver framsækinn einstaklingur að koma til virks og skipulegs starfs í stéttabaráttunni!

- SAMEINUMST TIL STARFS OG BARÁTTU FYRIR UPPBYGGINGU KOMMÚNISTAFLOKKSINS!

- FRAM TIL III. LANDSÞINGS EIK (m-l)!

- LIFI EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA (MARX-LENÍNISTA)!

# Afstaða EIK(m-l) til „Baráttuhreyfingar gegn heimsvaldastefnu"

Þann 4/6 hélt Víetnamhreyfingin á Íslandi þing sitt. Þar var nafni hennar breytt í "Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu" (BGH). Í stefnuskrá BGH segir að "höfuðandstæðingurinn sé heimsvaldastefna Bandaríkjanna og tengdra ríkja". Hreyfingin ætlar sér því ekki að berjast gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna, og reyndar var felld tillaga um að berjast gegn allri heimsvaldastefnu!

Risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin, undirbúa nú þriðju heimsstyrjöldina. Barátta gegn heimsvaldastefnunni hlýtur því um leið að vera barátta gegn stríðsundirbúningi og sú barátta verður aldrei sigursæl nema hún beinist gegn risaveldunum báðum. EIK(m-l) eru svarinn andstæðingur allrar heimsvaldastefnu og geta því ekki starfað með BGH. EIK(m-l) munu ekki starfa innan hreyfingar, sem einungis berst gegn heimsvaldastefnu Bandaríkjanna, en sem ver um leið heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Slík afstaða afvopnar alþýðuna og býr í haginn fyrir ítök heimsvaldasinna. EIK(m-l) munu þó mögulega styðja einstaka aðgerðir BGH.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l)

# Til miðstjórnar „KFÍ/ML" og félaga

# Opið bréf nr. 2

Í desember fyrir tæpu ári sendu EIK(m-l) opið bréf til samtaka ykkar. Þar var því lýst yfir að plagg það sem EIK(m-l) gáfu út í sept. 1976 og nefndist "Sameiningargrundvöllur ísl. marx-lenínista" sé undirstaða einingar samtakanna. Bréfinu hefur enn ekki verið svarað. Í desember hafði "KFÍ/ML" ekki heldur svarað sameiningargrundvellinum sjálfum og hefur ekki enn. EIK(m-l) ítreka í síðasta sinn tilboð sitt um einingu á grundvelli þessarar ályktunar.

Í opna bréfinu var spurt eftirfarandi spurninga:

1) Hvaða atriði eru það sem sundra en sameina ekki í grundvelli EIK(m-l) og hvernig er vikið frá marx-lenínismanum í honum?

2) Sameinast marx-lenínistar um grundvallaratriði marx-lenínismans og uppgjör við endurskoðunar- og hentistefnu? Ef svo er, hvers vegna hefur "KFÍ/ML" ekki tekið nánari afstöðu til sameiningargrundvallarins?

3) Hver er afstaða "KFÍ/ML" til grundvallarins og þar með til sameiningar marx-lenínista?

4) Úr því KSML hafði "ranga stefnu í flestum eða öllum baráttumálum" (bréf KSML 19. 12. 1975) og sömu grundvallarstefnu og sænsk, dönsk og norsk gagnbyltingarsamtök (yfirlýst bróðursamtök KSML) - hvernig gátu KSML þá haft rétta afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismans og verið marx-lenínísk frá stofnun?

Svari "KFÍ/ML" ekki þessum spurningum fyrir 1. nóvember n. k. og taki ekki afstöðu til sameiningar marx-lenínista á Íslandi í ljósi plaggs EIK(m-l), munu EIK(m-l):

1) Líta á síbylju "KFÍ/ML" um sameiningu ísl. marx-lenínista sem marklaust blekkingarhjal og tækifærisstefnu.

2) Líta svo á að "KFÍ/ML" vinni að því að grafa undan framþróun kommúnískrar hreyfingar á Íslandi.

3) Lýsa "KFÍ/ML" sem óalandi og óferjandi gagnbyltingarklíku vegna þessa.

Að fengnu svari munu EIK(m-l) meta hvort viðræður eigi sér stað eða ekki á sama hátt og "KFÍ/ML" metur það.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

# 21. ágúst : Hvað óttast miðnefnd S.H.?

Allmargir andheimsvaldasinnar stofnuðu svo nefnda 21. ágústnefnd 16. júlí s.l. Kjörorð hennar voru:

- Herir Sovétríkj. burt úr Tékkóslóvakíu!
- Samstaða með baráttu alþýðunnar í Tékkóslóvakíu!
- Barátta gegn allri heimsvaldastefnu - gegn báðum risaveldunum - Bandaríkjunum og Sovétríkjunum!

Skyldi stefnt að aðgerðum 21. ágúst til mótmæla innrásinni í Tékkóslóvakíu 21. ág. 1968 og hernámi Sovétríkjanna síðan.

Þessari nefnd hefur verið gert afar erfitt að starfa og leggjast þar á eitt félagar í Alþýðubandalaginu, "Kommúnistaflokknum" og Fylkingunni - þeir sem mest barma sér yfir "klofningi á vinstri væng"!

STOFNFUNDURINN

Á stofnfundi 21. ág.-nefndar reyndu Fylkingarfélagar (trotskistar) að koma í veg fyrir að kjörorð hennar beindust gegn báðum rángjörnu risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkj. Í þeirra augum eru Sovétríkin "vanskapað verkalýðsríki"!

Félagar "KFÍ/ML" vildu alls ekki að nefndin yrði stofnuð, heldur að fundurinn skoraði á Samtök herstöðvaandstæðinga (SH) að gangast fyrir aðgerðum. Urðu lyktir þær að nefndin var stofnuð á ofangreindum kjörorðagrunni en skorað á SH að styðja nefndina.

Er 21. ág.-nefndin hafði samband við miðnefnd SH, kom fram að hún hafði þegar sett þriggja manna hóp í málið, en ekki voru kjörorð 21. ág.-nefndar sett þar í öndvegi. Fulltrúar beggja aðila áttu síðan með sér fundi þar sem margt furðulegt kom í ljós.

1. Miðnefnd SH var ekki til viðræðu um sameiginlegar aðgerðir eða samvinnu á jafnréttisgrunni.

2. Viðræður um sameiginlegan kjörorðagrunn voru ekki mögulegar þar eð allir herstöðvaandstæðingar (þar á meðal aðilar 21. ág.-nefndarinnar) skyldu fylkja liði undir kjörorðum SH, sem kveða á um "baráttu gegn heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum". Þessu vildi framkvæmdanefnd 21. ág.-nefndar ekki una.

RÖK MIÐNEFNDAR SH

Fáheyrð er fyrrgreind afstaða SH, en enn fáheyrðari eru þó rökin - eða öllu heldur rökleysan!

Þrátt fyrir margítrekuð boð um samvinnu og breytingar á kjörorðum, sagði miðnefnd samvinnutilboðið "of þröngt". Ennfremur væri baráttugrundvöllur 21. ág.-nefndar "of þröngur". Þá telur miðnefnd sig ekki geta haft samvinnu við önnur samtök, því þá sé hún að hleypa öðrum í að "túlka stefnuskrá" SH, sem hún ein má túlka á milli landsfunda. Ekki heldur má gefa fordæmi um samvinnu "við aðra", því þá koma alls kyns samtök og falast eftir samvinnu!

Loks segir miðnefnd, að SH séu svo breið samfylkingarsamtök að þau rúmi alla herstöðvaandstæðinga og þar af leiðandi skuli hún ein standa að hugsanlegum aðgerðum 21. ágúst.

HVAÐ LIGGUR AÐ BAKI?

Það er krafa allra raunverulegra herstöðvaandstæðinga að miðnefnd komi fram eins og baráttusinnar en ekki klofningsmenn. Ljóst er að 21. ág.-nefndin gengur lengra en SH og nefnir hlutina sínum réttu nöfnum. Til að ná fjölda í aðgerðir er svo mál beggja að samræma sjónarmiðin - þetta er venjuleg samfylkingaraðferð. Það er tómt mál að tala um að andheimsvaldasinnar megi ekki leggja fram stefnu sína utan og innan SH, en SH hafi síðan einkaleyfi á aðgerðum gegn herstöðvum, NATO og öðrum hernaðarbandalögum. Það að væna 21. ág.-nefnd um "klofning", "hnýsni í innri mál SH" og fl. er líka tómt mál. Mergurinn málsins er einfaldlega sá að miðnefnd vill ekki láta reyna á málamyndasamstöðu þeirra í SH sem vilja baráttu gegn Sovétríkjunum og þeirra er eiga samstöðu með Sovét í raun. Hún vill ein ráða gangi mála vegna eiginhagsmuna pólitískra flokka og hún vill einangra EIK(m-l), - t.d. með því að setja jafnaðarmerki á milli nefndarinnar og samtakanna.

HVAÐ ÓTTAST MIÐNEFND?

Er nokkuð sjálfsagðara en að SH hafi baráttu gegn báðum risaveldunum á dagskrá? Nei, það er hið eina rétta. Sovétsinnar eru hins vegar svo öflugir í SH, að úr verður einstefnuakstur á herinn/NATO. Í kjörorðagrunni SH í tilefni 21. ág. er hvergi minnst á Sovétríkin! Þau eru einu sinni nefnd í formála, en eftir það talað um "erlent hervald", Varsjárbandalagið o.s.frv. Hefði ekki verið fáránlegt að tala um "erlent herlið", "vestræna heri" og NATO eingöngu varðandi árásarstríð Bandaríkjanna á Víetnam? Jú, auðvitað. Því segum við að Sovétríkin verði að draga út úr; þau eru jú höfuðóvinur tékkneskrar og slóvakískrar alþýðu!

En miðnefnd vill ekki leysa þennan hnút og hún vill heldur ekki gera deilur sínar við 21. ág.-nefndina opinberar - ekki einu sinni félögum í SH. Fólk úr Alþýðubandalagi og "KFÍ/ML" kom í veg fyrir að opið bréf yrði sent miðnefnd á fundi 21. ág.-nefndar og lét það sig hafa það að skrifa undir stefnugrundvöll nefndarinnar til að afla sér atkvæðisréttar á fundinum!

TVEIR FUNDIR 21. ÁGÚST

SH hafa auglýst aðgerðir 21. ág. og 21. ág.-nefndin hefur ákveðið að halda fund þá um daginn. Sá fundur verður haldinn undir fyrrnefndum kjörorðum hennar og er því einarðlegur baráttufundur gegn báðum risaveldunum og sovéskri kúgun í Tékkóslóvakíu. Þennan fund eiga allir raunverulegir andstæðingar risaveldanna að sækja! Fundur SH er tilkominn vegna baráttu samtakanna við að fela höfuðóvininn - Sovétríkin - og vegna

Framhald á baksíðu




# „Ofurmennið"

"Þjóðfélagi Íslendinga er stjórnað af meðalmennum fyrir meðalmenn". Þetta eru hin vísu orð Jónasar Kristjánssonar Dagblaðsritstjóra á dögunum. "Við þurfum snillinga", segir Jónas í leiðara í blaði sínu, "ofurmennin skipta meira máli en 99% þjóðarinnar". Án snillinganna er Ísland "aðeins óarðbær útkjálki fólks sem lifir á molum, er falla af nægtarborði umheimsins".

Þessar kenningar eru ekki nýjar. Hitler sálugi reyndi þær m. a. við kunnan árangur. Hugmyndir Jónasar beinast aðeins gegn íslensku verkafólki ("óarðbæru útkjálkafólki"). Fasisminn er árás á verkalýðinn, og undir fasisma flokkast hugmyndir Jónasar. "Karl Marx var úti að aka, þegar hann sagði að hendur almennings sköpuðu verðmætin", segir Jónas. Hvernig væri að starfsfólk Dagblaðsins, allt frá blaðamönnum til sölubarna, leggði niður störf um hríð og leyfði snillingnum Jónasi Kristjánssyni einum með allar hugmyndirnar sínar í kollinum - en ekkert blað til að birta þær í. Ætli kæmi þá ekki í ljós hver er úti að aka!

# BYGGJUM VERKALÝÐSBLAÐ
# Verkalýðsblaðið tvisvar í mánuði

Bráðlega verður útgáfutíðni Verkalýðsblaðsins aukin. Blaðið mun þá byrja á hálfs mánaðar útgáfu í stað mánaðarlegrar.

Þetta skref táknar að hin unga kommúníska hreyfing á Íslandi hefur unnið áfangasigur. Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) — EIK(m-l) - hafa bæst margir dugandi baráttumenn og pólitísk stefna samtakanna hefur styrkst og fengið eldskírn í baráttu verkalýðs og vinnandi alþýðu.

EIK(m-l) eru enn lítil samtök og baráttustaða þeirra er veik. Verkalýðsblaðið - málgagn samtakanna - endurspeglar styrk og stöðu samtakanna og sýnir stöðu stéttabaráttunnar á hverjum tíma. Vöxtur blaðsins er vottur um eflingu stéttabaráttu á Íslandi og vitnisburður um að baráttustefna ryður sér rúms. En þrátt fyrir að Verkalýðsblaðið og EIK(m-l) fagni unnum sigrum og taki stór skref í því starfi sem er höfuðverkefni samtakanna, bygging raunverulegs verkalýðsflokks, sem engra hagsmuna annarra hefur að gæta en verkalýðs og vinnandi alþýðu, þá er mikið verk óunnið. EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið þurfa á stuðnini allra baráttusinna að halda. Sá stuðningur getur verið í formi fjárgjafa til söfnunar blaðsins, til kaupa á prentsmiðju; í formi stuðningsáskriftar að blaðinu í stað þess að kaupa það í lausasölu; stuðningur með því að senda blaðinu fréttir og frásagnir af baráttu og kjörum verkalýðs og vinnandi alþýðu til sjávar og sveita.

Verkalýðsblaðið er og verður alla tíð óháð öllum peningaöflum. Þegar blað sem kennir sig við málstað verkalýðsstéttarinnar er orðið háð auðstéttinni, hvort sem er vegna beinna fjárgjafa auðherra eða ríkis í formi styrkja og auglýsinga og slíkra viðskipta þar sem alþýðan er tæld og prettuð, - þá er blaðið ekki lengur verkalýðssinnað, heldur borgaralegt og þjónn borgarastéttarinnar og peningavalds hennar.

VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

PRENTSMIÐJUKAUP

Verkalýðsblaðið er nú prentað í atvinnurekendaprentsmiðju. Þegar til lengdar lætur setur það blaðinu skorður. Blaðið verður því að eignast eigin prentsmiðju. Sú prentsmiðja verður og að geta sinnt prentun byltingarrita og alþýðubókmennta. Verkalýðsblaðið og EIK(m-l) hafa þegar fest kaup á öllum nauðsynlegum tækjum - prentvél og tilheyrandi útbúnaði - sem þarf til prentunar Verkalýðsblaðsins. Fjármagns vegna þessa er eingöngu aflað með frjálsum framlögum. Í gangi er söfnun og er ætlunin að safna hálfri milljón kr. til áramóta í prentsmiðjusjóð. Söfnun þessi er komin vel á veg, en ljóst er að kostnaður vegna þessa er mun meiri og því þarf að herða róðurinn og safna af krafti - sprengja markið löngu fyrir áramótin!

Ætlað er að hefja prentun blaðsins í eigin prentsmiðju fyrir n.k. áramót. Sá áfangi markar tímamót og er enn eitt tákn um vaxandi styrk marx-lenínísku hreyfingarinnar. Til þess að standa vel að þessum áfanga verður að efla söfnunina og allt áróðursstarf EIK(m-l) í því skyni að gera Verkalýðsblaðið að enn betri málsvara baráttustefnu og sósíalískrar byltingar.

Sendið fjárstuðning á gíró 12200-9

BYGGJUM VERKALÝÐSBLAÐ!

---

## Ritstjóri Verkalýðsblaðsins:
# „Við sköpum biturt vopn"

Í september byrjar VB að koma út tvisvar í hverjum mánuði í stað einu sinni áður. Í tilefni þessa áfanga var rætt við ritstjóra blaðsins, Albert Einarsson.

- Stundum er spurt hvort ekki sé orðið nóg af blöðum á Íslandi. Er VB aðeins "eitt blaðið enn", eða sker það sig úr að einhverju leyti?

- Allt þar til Verkalýðsblaðið kom fyrst út, snemma árs 1975, hafði í langan tíma ekki verið til einhlítur og traustur málsvari verkalýðs og alþýðu. Þetta er auðvitað tengt þeirri staðreynd að um langan aldur hefur ekki verið til stjórnmálaflokkur/samtök á Íslandi sem berst einarðlega fyrir kjörum og réttindum verkalýðs. EIK(m-l) voru stofnuð 1975 og samtökin eru forystuafl í uppbyggingu raunverulegs verkalýðsflokks - kommúnistaflokks. Verkalýðsblaðið er nauðsynlegur hlekkur í þessu starfi og sker sig þannig rækilega frá öllum öðrum blöðum á "vinstri" væng.

- Nú eru fleiri blöð sem gera tilkall til að heita "verkalýðsblöð" (Þjóðviljinn, Stéttabaráttan, Neisti o.fl.)?

- Já, vissulega. Þegar Þjóðviljinn hóf göngu sína 1936, var byggt á grunni sem kommúnistarnir í gamla KFÍ höfðu hlaðið. Lengi framan af þjónaði Þjóðviljinn baráttu alþýðunnar í mörgum málum, þó svo að þjónslund við borgarastétt og ríkisvald væri alltaf viðloðandi og afhjúpaðist sífellt betur. Í dag er Þjóðviljinn að heita má jafngóður þjónn borgaralegra afla og hinir borgaralegu fjölmiðlarnir. Sem dæmi má nefna aukablað Þjóðviljans um "ísl. atvinnustefnu", en í einu af þeim er t.d. fjallað í löngu og ítarlegu máli um hag fyrirtækja og forstjóra, en ekkert einasta orð um réttinda- og kjarabaráttu iðnverkafólks.

Um blöð eins og Stéttabaráttuna og Neista gildir það, að þau eru nánast bergmál Þjóðviljans - með aðeins "rauðari tónum". Neistafólkið er margt flokksbundið í Alþýðubandalaginu og í mörgum málum er enginn munur á afstöðu Stéttabaráttufólksins og t.d. Þjóðviljans/Alþýðubandalags. Nægir þar að nefna afstöðu "KFÍ"/Fylkingar/Alþýðubandalags til hersetu Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu. (Ath. grein á öðrum stað í þessu blaði).

- Nú hefur Verkalýðsblaðið vaxið ört og fyrir dyrum stendur að auka útgáfutíðni. Hvaða þýðingu hefur þetta?

BITURT VOPN Í STÉTTABARATTU

- Hálfs mánaðar-blaðið er aðeins einn mikilvægur áfangi á leiðinni. Við erum að skapa biturt vopn til handa verkalýð og vinnandi fólki í stéttabaráttunni. Takmarkið er dagblað sem algerlega sé borið uppi af verkalýð og baráttusinnum og þjóni þeim í einu og öllu. Þetta verður erfitt, en það mun takast.

Aukin útgáfutíðni og traustur efnahagsgrundvöllur blaðsins skapar sterkari baráttustöðu. VB getur t.d. fylgt á eftir baráttumálum í vaxandi mæli, orðið liðtækara í því að hvetja, leiðbeina og upplýsa verkafólk. Síðasttalda atriðið er ekki hvað síst mikilvægt, með tilliti til villandi fréttaflutnings borgarafjölmiðlanna - eða þögn - um hagsmunamál og baráttu verkalýðs á Íslandi jafnt sem úti í heimi.

Aukin útgáfutíðni er svo afar mikilvægur liður í uppbyggingu raunverulegs verkalýðsflokks, sem leiða mun baráttuna fyrir bættum kjörum og nýju samfélagi - sósíalisma.

- Einn liður í uppbyggingunni er sá að gera blaðið óháð aðkeyptri vinnu, t.d. prentun. Hvað líður þeim málum?

- Það hefur verið stigið afar mikilvægt skref í baráttunni fyrir því að gera verkalýðsblaðið sjálfbjarga hvað varðar vinnslu, með ákvörðun EIK(m-l) um kaup á fullkominni prentsmiðju. Hún mun komast í gagnið innan tíðar og þar verður mögulegt að prenta blaðið í því formi sem það nú er, auk þess sem þar má prenta allt útgáfuefni Októberforlagsins sf, og ýmiss konar efni fyrir þau raunverulegu baráttusamtök sem þess óska.

- En þetta er dýrt fyrirtæki?

TAKIÐ ÞÁTT Í UPPBYGGINGUNNI!

- Já, prentsmiðjan kostar mikla peninga og verður alfarið fjármögnuð með söfnunum og frjálsum framlögum. Nú er markmiðið að safna hálfri milljón fram til áramóta og sú söfnun hefur farið mjög vel af stað. Brýnt er þó að slá hvergi slöku við á komandi mánuðum. Ég vil að lokum hvetja alla baráttusinna til að taka virkan þátt í þessari uppbyggingu: gefa fé og styðja Verkalýðsblaðið og hina ungu kommúnísku hreyfingu á allan hátt.




MYND: Verkalýðsblaðið hefur tekið stórstígum framförum frá því að fyrsta tölublað þess kom út fjölritað í apríl 1975.

---

BYGGJUM VERKALÝÐSBLAÐ!

Blaðsíðum 3 og 4 -kálfinum- verður dreift sem dreifiriti í stóru upplagi. Félagar og stuðningsfólk er beðið um að senda pantanir á dreifiritum til blaðsins sem allra fyrst.

SENDIÐ PANTANIR Á:
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
Pósthólf 5186
Reykjavík.

BYGGJUM VERKALÝÐSBLAÐ!

---

# Fræðslufundir EIK(m-l)

EIK(m-l) hafa ákveðið að efna til opinna funda í vetur um ýmis mikilvæg málefni stéttabaráttunnar hér heima og erlendis. Fundarefni og dagsetning hvers fundar hafa verið ákveðin, en fundarstaður verður auglýstur síðar í Verkalýðsblaðinu og víðar. Fyrirkomulag fundanna verður þannig, að flutt verður framsaga um hvert efni og síðan verða fyrirspurnir og umræður. Fundarefnin verða sem hér segir:

1. 1. október: HVAÐ ER AÐ GERAST Í AFRÍKU?
2. 5. nóvember: STÉTTARFÉLÖGIN SEM BARÁTTUTÆKI VERKALÝÐS
3. 3. desember: UPPBYGGING SÓSIALISMANS Í KÍNA
4. 16. janúar: SJÁLFRÆÐI ÍSL. ÞJÓÐARINNAR - STRÍÐSHÆTTAN
5. 13. febrúar: SOVÉTRÍKIN ERU EKKI SÓSIALÍSK!
6. 13. mars: NÝR VERKALÝÐSFLOKKUR - FORYSTUAFL VERKALÝÐS
7. 12. apríl: ALÞÝÐUBANDALAGIÐ OG SAGA SÓSIALÍSKRAR HREYFINGAR Á ÍSLANDI



"Og hérna getið þið þá veitt eins og ykkur lystir"

# STRÍÐ OG FRIÐUR

Svo lengi sem auðvaldið á efsta stigi sínu - heimsvaldastiginu - er til, eru styrjaldir óhjákvæmilegar. Þetta er inntak lenínismans varðandi óréttmæt stríð. Þau stríð sem eru háð til að kúga og arðræna þjóðir, stéttir eða þjóðernisminnihluta eru óréttlát. En það eru einnig til réttmæt stríð. Stríð undirokaðrar alþýðu og þjóða gegn kúgurum eru réttlát, sbr. Víetnam o.fl.

Stríð undirokaðra stétta gegn kúgunarstéttum eru og réttmæt, sbr. uppreisnir í ýmsum blökkumannasamfélögum (nú t.d. í Suður-Afríku(Azaníu)) eða Októberbyltingin í Rússlandi 1917 og sósíalíska byltingin í Kína.

Stríð þjóðernisminnihluta gegn kúgun, svo sem barátta Kúrda í Íran/Írak er líka dæmi um réttmætt stríð.

Með framangreint í huga getum við spurt: Getur nokkur í heimi arðráns og kúgunar verið alger "friðarsinni" í raunverulegri merkingu þess orðs? Nei, segjum við. Það væri sammerkt því að blekkja sjálfan sig og neita því að rísa upp til að aflétta kúgun og undirokun. ENGINN framsækinn aðili getur t.d. fordæmt norska föðurlandsvini fyrir að hafa tekið upp baráttu gegn þýsku nasistunum og handbendum þeirra!

## HERVARNIR

Í heimi styrjalda, sem óhjákvæmilega verða þar til arðráni er útrýmt, ásækja drottnandi stéttir þær undirokuðu, auðvaldslönd nýlendur og nýfrjáls ríki og loks ásækja stærri auðvaldsríki þau minni og veikari. Veruleikinn staðfestir þetta og ekkert annað. Við slíkar aðstæður verða til herir og vopnabarátta. Herir arðræningja eru búnir til úr alþýðunni. Þeirra hlutverk er afturhaldssamt. Þeir geta aldrei sem heild varið frelsi þjóðar eða bætt hag alþýðu. Þeim er stjórnað af ríkjandi stétt til að undiroka aðra alþýðu eða verkalýð í eigin landi. Herir hinna arðrændu eru líka búnir til úr alþýðunni, en þeirra hlutverk er framsækið. Þeir verja frelsi þjóða og varpa oki af alþýðunni. Þeir og alþýðan eru eitt og þeim er stjórnað af henni. Slíkir herir getað sigrað stórveldi, sbr. Víetnam.

## LANDVARNIR ÍSLANDS

Ísland var löngum nýlenda, kúguð af dönsku yfirstéttar-, embættismanna- og hervaldi. Það átti að verja landið. Hefði vopnuð uppreisn ísl. alþýðu þá verið réttmæt? Já, hún hefði verið það: þetta vald kúgaði þjóðina en beindist ekki að því að afnema kúgunina. En sem betur fór, náðist sjálfstæði með stjórnmálabaráttu eftir tiltölulega friðsamlegum leiðum. Orsakirnar eru margar og ekki efni til að rekja þær nánar.

Eftir fullveldið 1918 var öryggi Íslands alvarlega ógnað í II. heimsstyrjöldinni. Þá hernámu Bretar landið og hindruðu a.m.k. þýsku nasistaherina í að fara hér með svartasta ofbeldi. Danmörk gat ekki varið landið þá sem fyrr. En tryggði þessi breski her sjálfstæði landsins með því að fara héðan aftur? Nei, samvinna bresku yfirstéttarinnar, þeirrar íslensku og bandarísku varð til þess að skipt var um hernámslið sem síðan varð að setuliði Bandaríkjanna eftir stríðið.

Friðsamleg mótmæli alls þorra alþýðu gegn inngöngu í NATO 1949 og gegn "herverndarsamningnum" stuttu síðar voru hunsuð og alþýðufólki sem vildi mótmæla var tvístrað með kylfum og táragasi á Austurvelli.

Íslenska yfirstéttin, með stuðningi nær allrar þjóðarinnar, tók sér fullt sjálfstæði 1944, en fól landvarnir að mestu í hendur Bandaríkjunum. Hefði vopnuð barátta fyrir fullu sjálfræði gegn dönsku og bandarísku yfirvöldunum verið réttmæt þá? Já, hún hefði verið það, þó fjarlæg hafi verið.

Hvers vegna? Jú, fyrst og fremst vegna þess að bandarískur her tryggir aldrei sjálfstæði Íslands né hag alþýðu. Hann hefur hvergi gert það.

Mynd: Frá vopnaðri þjóðfrelsisbaráttu í Eritreu. Íslenskur verkalýður og alþýða verður að búa sig undir að grípa til vopna til að verja sjálfræði þjóðarinnar ef til stríðs kemur.

## YFIRVOFANDI STYRJÖLD

Nú er stund milli stríða. Sovétríkin eru orðin auðvaldsríki og keppa við hitt volduga auðvaldsríkið, Bandaríkin, um heimsyfirráð, rétt eins og Hitlers-Þýskaland við Bretland og Bandaríkin áður. Vígbúnaðarkapphlaupið, minni háttar jaðarstríð og allt friðarhjalið benda ákveðið til III. heimsstyrjaldarinnar á næstunni - stórstyrjaldar og hörmunga. Hverjar skyldu þá landvarnir Íslands vera?

Í yfirvofandi stríði munu Sovétríkin reyna að hernema Ísland. Kostirnir eru þá þrír; allir munu hafa válega atburði í för með sér:

1. Að beygja sig mótspyrnulaust undir okið, hvort sem Sovétríkin vinna landið eða Bandaríkin nota það til eigin þarfa. Þjóðin glataði þá sjálfstæði sínu.
2. Að treysta á NATO, vinna sjálfstætt með bandaríska setuliðinu og reyna að berjast við innrásarliðið. Þetta er annað hvort mögulegt sem viss samvinna til skamms tíma sem síðan snýst í baráttu gegn Bandaríkjunum/NATO eða sem alger undirgefni og samvinna við NATO.
3. Andspyrna og sjálfstætt skærustríð gegn báðum risaveldunum þar sem alþýðan beitir öllum tiltækum ráðum til að frelsa landið undan setuliði Bandaríkjanna eða hernámsliði Sovétríkjanna.

Fleiri eru kostirnir ekki.

## 3. KOSTURINN - ALÞÝÐUSTRÍÐ

Alþýðustríð er sá kosturinn sem langvinnt herleysi, sérstaða ísl. landvarna og almennur vilji til friðar meðal þorra Íslendinga gerir einna fjarlægastan. Það er staðreynd.

Norðmenn sem háðu stríð nokkuð í ætt við alþýðustríð, börðust við svipaða erfiðleika. En þeir áttu ekki annan kost en að berjast! Því er það sem almenn andstaða gegn hvoru risaveldinu sem er - einnig í formi vopnabaráttu að einhverju marki - hlýtur að vera okkar valkostur. Og slíkt kemur hvorki í veg fyrir né útheimtir einhverja samvinnu við andstæðinga Sovétríkjanna ef hennar er þörf á vissu stigi í styrjöldinni, fremur en norskir föðurlandsvinir urðu að vinna með Bretum á sínum tíma. Stríðið væri þannig réttmætt þjóðfrelsisstríð.

Fólksfæð, erfitt land, lítil þekking á vopnaburði og skortur á hernaðartækjum er vissulega yfirstíganlegt vandamál. Aðalvandamálið er að opna augu alþýðufólks sem fyrst fyrir stríðshættu og nauðsyn þess að leggjast ekki eins og lamb til slátrunar þegar tíminn kemur!

EIK(m-l) gera sér fulla grein fyrir hættunni á því að kommúnistar verði sakaðir um stríðsæsingar og ofbeldistal. Samtökin benda á móti á réttmæta baráttu allra andspyrnuhreyfinga og andfasískra herja í II. heimsstyrjöldinni og spyrja: Ef og þegar III. heimsstyrjöldin brýst út; á þá íslensk alþýða að ganga upprétt og veita viðnám eða ekki?

EIK(m-l) munu leggja vaxandi áherslu á áróðursstarf til að búa ísl. verkalýð og alþýðu undir styrjaldartíma. Samtökin neita öllum ásökunum um stríðsæsingar. Kommúnistar eru friðarsinnar og telja alþýðustríð í öllum tilvikum besta kostinn af óvægustu kostunum, en nauðsyn til að verja sjálfstæði þjóðarinnar ef til stríðs kemur. Landvarnir Íslands eru ekki feimnismál sem tæplega má impra á, hvað þá ræða frá öllum hliðum. Þær verða ekki faldar réttilega hættulegu risaveldi sem fer með ránum og vígum víða um heim.

# 1/2 MILLJÓN fyrir prentvél

Söfnum 1/2-milljón fyrir árslok!

Fjárhæðin mun renna í sjóð til kaupa á vélum fyrir blaðið. Þannig verður það sjálfbjarga.

Lifi prentsmiðja VERKALÝÐSBLAÐSINS!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

500,000
400,000
300,000
200,000
100,000
296.768.

Söfnun Verkalýðsblaðsins "hálf milljón í prentvélarsjóð fyrir áramót!" er hálfnuð og vel það. Í júlí og ágúst hafa bæst álitlegar fjárhæðir í sjóðinn: á sumarmóti EIK(m-l) í ágúst söfnuðust 160 þús., þá hafa félagar og stuðningsmenn heima og erlendis sent inn álitlegar fjárhæðir. Glæsilegur árangur og vissulega hvatning til að herða róðurinn. Gíróið er 12200-9!

# Október í nýtt húsnæði

OKTÓBER-forlagið mun fyrir næstu mánaðarmót flytja aðsetur sitt á ÓÐINSGÖTU 30.

Þar verður hægt að fá útgáfuefni forlagsins og auk þess erlendar bækur og hljómplötur.

Fyrst um sinn verður opið sem hér segir:
Miðvikudaga kl. 4-7,
Föstudaga - 5-7,
Laugardaga - 2-4.

Október

Á sama tíma er opið í núverandi aðsetri forlagsins á Laugarvegi 178, 2. hæð (á horni Bolholts).

# Lífeyrinn í hendur eigenda!

Vinnandi fólk greiðir ákveðna prósentu af launum sínum í lífeyrissjóði. Atvinnurekendur greiða einnig beint í sjóðinn og hefur þetta fyrirkomulag verið notað sem átylla fyrir setu atvinnurekenda í stjórnum lífeyrissjóðanna - þar sem þeir ráðskast með fé sem þeir eiga ekki nokkurn skapaðan hlut í.

Skrifræðisbáknið í þjóðfélaginu er orðið slíkt, að mörgum veitist erfitt að fylgjast með raunverulegu kaupi sínu og huga að ýmsum frádráttarliðum á launaseðlum. Þeim hefur því af skiljanlegum ástæðum veist erfitt að fylgjast með því hvað raunverulega verður um fé þeirra. Það er t.d. algengt að atvinnurekendur greiði alls ekki sinn hluta af lífeyri í sjóðina, heldur skuldi stórar fúlgur sem seint eða aldrei eru heimtar inn. Þá er og algengt að fé "týnist" á þann hátt, að fólk sem vinnur óreglulega á mörgum stöðum, hverjum á fætur öðrum, eignast ekki nothæfa inneign til lántöku úr lífeyrissjóði.

## HVAÐ VERÐUR UM FJÁRMAGNIÐ?

Einnig virðist svo sem margir viti lítt um það, til hvers fé þeirra er varið áður en þeir hafa aflað sér réttinda til lántöku.

Staðreyndin er, að stórar summur eru afhentar auðherrunum til ráðstöfunar - "lán til atvinnuuppbyggingar". Annað er notað til að hjálpa samkynja andstæðingi, ríkisvaldinu, upp úr skuldafeni með kaupum á ríkisskuldabréfum.

Þetta allt samþykkja fulltrúar verkalýðshreyfingarinnar, sem liggja hundflatir fyrir stéttasamvinnustefnunni.

Annað íhugunarvert atriði varðandi lífeyrissjóðina, eru vextir á lánum úr þeim. Lánin hafa 17% vexti og eru vísitölutryggð að auki, þannig að lokaendurgreiðsla láns nálgast það að vera tvö-þrefalt upphafslánið.

Af öllu þessu má ráða að brýna nauðsyn ber til að hreinsa til í stjórn lífeyrissjóðanna. Það er brýn hagsmunakrafa fyrir verkafólk og alþýðu að ná yfirráðum yfir fjármunum sínum, stöðva notkun þess fyrir atvinnurekendur og breyta lánakjörum.

# Söfnum hundrað áskrifendum fyrir 1. september

100 áskrif.!

| | |
|---|---|
| sept. | |
| ágúst | 73 |
| júlí | 58 |
| júní | |
| maí | 34 |
| apríl | 26 |
| mars | |

100
80
60
40
20

# Nýjar plötur

Á bókamarkaði Október-forlagsins má fá ýmsar hljómplötur sem hafa að geyma byltingar- og alþýðutónlist, aðallega frá Norðurlöndum. T.d. er nýkomið albúmið "RIDDERSLAG" með byltingarsinnuðum verkalýðssöngvum sungnum af norskum listamönnum.

ARBEIDSLAGET
GROVARBEID

baráttuleið alþýðunnar
stefnuskrá eik(m-l)

Október

# Hver er sannleikurinn um Teng Hsiao-ping?

Teng Hsiao-ping hefur á ný tekið við öllum fyrri embættum í Kínverska Kommúnistaflokknum (KFK) og ríkinu. Hefur sú fregn orðið borgaralegu fjölmiðlunum enn eitt tilefnið til vangaveltna um þróunina í Kína, og helst er hallast að því að þetta sýni að "hinir hægfara" hafi enn tryggt tök sín í flokknum! Endurkoma Tengs í valdastöður er hins vegar merki um nýja sigra yfir gagnbyltingarklíku fjórmenninganna svokölluðu - en Teng var djarfur baráttumaður gegn áhrifum þeirra og stefnu og þeir áttu drjúgan þátt í því að hann var sviptur völdum.

Það var í apríl á síðasta ári sem til þeirra tíðinda dró er leiddu til "falls" Tengs. Nær ein milljón manna hafði safnast saman í miðborg Peking til útifundar, sem síðan lauk með óeirðum. Í kínverskum fjölmiðlum - einmitt þar sem áhrif fjórmenninganna voru hvað mest - var Teng sakaður um að hafa staðið á bak við þessar "gagnbyltingartilraunir", eins og mótmælaaðgerðirnar voru kallaðar. Nú er hins vegar ljóst að ásakanirnar á hendur Teng voru uppspuni einn og einnig að þeir sem söfnuðust saman í Peking í fyrra gerðu það til að láta í ljós reiði vegna sífelldra árása fjölmiðla á Sjú En-læ, hinn nýlátna forsætisráðherra Kína. Í aðgerðunum voru m.a. hrópuð vígorð gegn fjórmenningaklíkunni.

Árás fjórmenninganna á Teng var liður í áformum þeirra að hrifsa völdin í Kína og þeir lögðu mikla áherslu á að sverta hann og bola honum frá. Teng hafði enda gengið einna lengst í gagnrýni á þá og lá þar að auki best við höggi þeirra, vegna fyrri pólitískra villna.

VILLUR TENGS

Teng hafði gert margar villur í starfi og sumar alvarlegar, t. d. urðu þær honum að falli 1966. Hann hefur viðurkennt mistök sín og gert sjálfsgagnrýni. Í bréfi til flokksforystunnar lætur hann í ljós ósk um að taka við fyrri störfum á ný (hann hefur aldrei verið rekinn úr flokknum og því hefur flokkurinn alltaf metið villur hans sem frávik frá réttri línu en ekki gagnbyltingarstefnu). Hann gerir jafnframt sjálfsgagnrýni á mikilvæg atriði:
+ Hann telur þar að tök sín á marxismanum hafi verið slæm.
+ Hann viðurkennir það sem grundvallarvillu, þegar hann neitaði að líta á stéttabaráttuna í sósíalismanum sem höfuðatriði og hafi hann þannig torveldað baráttuna gegn fjórmenningunum 1975 og 1976.
+ Loks viðurkennir Teng að í flokksstarfi hafi hann oft sýnt bráðlæti og litla fyrirhyggju.

Teng Hsiao-ping er sá félagi í KFK sem einna mesta pólitíska reynslu hafa, en hann stofnaði á sínum tíma deild úr flokknum í Frakklandi - ásamt Sjú En-læ. Þar var hann verkamaður á árunum 1920-24. Hann hefur síðan verið í forystusveit Kommúnistaflokksins. Hann hefur gert villur í pólitísku starfi, bæði smáar og stórar, en flokkurinn og alþýðan hefur alltaf gefið honum kost á því að leiðrétta villur sínar og endurheimta fyrri stöður. Hann er enda hæfileikamaður mikill og fyrir trausta og reynda baráttumenn er alltaf þörf - líka í hinu sósíalíska Kína.

Stöðugt vinnast nýir sigrar í baráttunni gegn fjórmenningunum. Henni er síður en svo lokið og ritstjóri blaðsins GNISTAN í Svíþjóð hefur eftir kínverskum leiðtoga, að "margir eigi enn eftir að þvo hendur sínar". Baráttan heldur því áfram.



MYND: Teng Hsiao-ping. Kominn í þriðja sinn fram á pólitískt sjónarsvið í Kína. Hann nýtur virðingar og vinsælda alþýðu vegna baráttunnar sem hann háði gegn klíku fjórmenninganna.

# Kaupum ekki vörur frá ROBIN HOOD!

Verkamenn við Robin Hood hveitiverksmiðjuna í Kanada hafa verið í verkfalli s.l. hálft ár. Berjast þeir fyrir hækkun launa og síðustu daga hefur baráttan harðnað að mun. Robin Hood, sem Sambandið er umboðsaðili fyrir á Íslandi, hefur á að skipa vopnaðri "innanhúslögreglu", sem skipuð er uppgjafa þjófum, morðvörgum og allra handa skúrkum. Liði þessu hefur verið beitt óspart gegn verkafólki Robin Hood og 22. júlí særðust átta verkamenn alvarlega í skothríð glæpalýðsins á hóp verkfallsmanna.

Ofbeldisverk þessi hafa vakið mikla reiði meðal verkalýðs í Montreal og víðar í Kanada og t.d. tóku mörg hundruð manns þátt í mótmælaaðgerðum Kommúnistasamtaka Kanada (m-l), bróðurfélagsskapar EIK(m-l) þar í landi. KSK(m-l) hefur og safnað fjárupphæðum til handa verkfallsmönnum og stutt þá og starfað meðal þeirra á allan hátt.

EIK(m-l) sendu verkfallsmönnum við Robin Hood skeyti, þar sem lýst var stuðningi við hetjulega baráttu þeirra, og mótmælt árásum atvinnurekenda og hryðjuverkum á hendur verkafólki. Í skeytinu sagði einnig, að hörð barátta verkafólksins myndi færa sigur, ekki aðeins til handa því, heldur og til handa verkalýðsstéttum allra landa.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hvetur lesendur til að sniðganga algerlega vörur Robin Hood í verslunum hér og að hvetja annað fólk til að gera slíkt hið sama. Þannig réttum við kanadískum baráttufélögum okkar hjálparhönd og gerum alþjóðahyggju verkalýðsins raunverulega.



Særður félagi borinn á brott

# Samtíningur

## Séð frá Hákoti

Það setur óneitanlega að okkur "hjáleigukomplex" hér í"litlu róttæklingasamtökunum" við lestur leiðarans í 24.tbl. Stéttabaráttunnar (málgagni "KFÍ/ML"). Leiðarinn fjallar um niðurstöður kjarasamninganna - og gætir þess í leiðinni að afgreiða "nokkra svokallaða róttæka hópa" sem hjara í kringum Flokkinn stóra. Lítum nú á hvernig umhverfið lítur út af hlaði Höfuðbólsins: "Nokkrir svokallaðir "róttækir hópar" studdu kröfur og stefnu ASÍ í kjaradeilunni". .."En annar hópur (sem kennir sig við marx-lenínisma) var sammála þeim fyrri.... þessi hópur áleit líka, að rétt væri að styðja ASÍ-kröfurnar..."

Sem sagt: annarsvegar hópar ístöðulítilla róttæklinga - hinsvegar KOMMÚNISTAFLOKKUR ÍSLANDS! Það er stórt orð Hákot. En hver er kjarninn í "röksemdum" Stéttabaráttunnar? Tvennt ber að skoða sérstaklega, í fyrsta lagi beitir Stb. aðferðinni að ljúga upp á EIK(m-l) stuðningi við ASÍ-forystuna (þeir á vikublaðinu virðast halda að þeir séu í svipaðri aðstöðu og Mogginn og geti logið í trausti þess að lesendur kynni sér lítið málflutning annarra). Í öðru lagi sést hvaða augum "Kfíararnir" líta trotskismann, ekki sem erkisvikara og fjendur verkalýðsins, heldur sem "ístöðulítinn róttæklingahóp"! Marx-lenínistar álíta trotskista ekki róttæka - heldur afturhaldsama!



Fylkingin fékk 230 atkvæði í síðustu kosningum og á þeim tíma börðust þeir fáu marx-lenínistar sem í Fylkingunni voru gegn framboðinu, bæði vegna stefnuleysis og rangrar stefnu í mörgum málum. Nú ræða Fylkingarmenn um nýtt framboð og munu ætla að klifra á bak "vinstri andstöðunni" í ASÍ. Aðalbaráttumálið verður "verkalýðsríkisstjórn" með landlægum verkalýðsplágum eins og Alþýðubandalagsforystunni og Alþýðuflokksforystunni í broddi fylkingar (Fylkingar!).

Vonandi fagna "verkalýðsflokkarnir" þessu, því nú verða þeir ekki lengur berskjaldaðir í bak - eigandi sér bróður í Fylkingunni. Hins vegar gætu orðið dálítil vandræði með framhliðina!

Musteri Rolf Johansens við Laugarásveginn er dýrt og veglegt - afrakstur innflutningsálagningar. EIK(m-l) hafa fregnað að Rolf sé einn styrktarmanna Þjóðviljans. Hvernig væri nú að Þjóðviljinn birti skrá yfir styrktarmenn sína og afsannaði þetta!



Forystumenn "Kommúnistaflokksins" með Stéttabaráttuna í löngu sumarfríi hafa farið inn á nýjar brautir. Nú reyna þeir að finna rök fyrir því hvers vegna ekki má nefna Sovétríkin í kjörorðum Samtaka herstöðvaandstæðinga til stuðnings baráttu í Tékkóslóvakíu. Því ber þó að fagna að enn má nefna Tékkóslóvakíu, en reynandi væri að spyrja einhverja Sovétvini í Alþýðubandalaginu hverju þetta sætir?



# LESENDABRÉF

## Verkakvennafélagið Framsókn: 21 gegn samningunum

Þann 23. júní var haldinn fundur hjá Verkakvennafélaginu Framsókn í Alþýðuhúskjallaranum.

Við mættum talsvert margar, enda umræðuefnið merkilegt: samningarnir. Þórunn Valdimarsdóttir, formaður, setti fund. Byrjað var á að lesa aðalinntak samninganna. Daníel Þórarinss. las fyrir okkur á þurran og tilbreytingarlausan hátt svo fundarkonur voru orðnar hálfþreyttar á þessu. Hann skaut þó nokkrum bröndurum að varðandi hátalarakerfið. Þetta lífgaði upp á fundinn, að vonum. Þegar sá mæti maður hafði þurrausið sig, var mælendaskrá opnuð. Fyrst leit út fyrir að enginn hefði neitt til málanna að leggja og þegar Þórunn formaður ætlaði fegins hendi að loka fyrir mælendaskrá, stóð upp skúringakona nokkur og bað okkur með nokkrum vel völdum orðum að samþykkja þessa stórgóðu samninga. Við mættum vera ánægðar með þetta sem við hefðum þó fengið o.s.frv. Eftir þetta komu upp umræður meðal kvennanna í Ísbirninum. Það á að lækka hjá þeim bónusinn all-svakalega núna 1. sept., og þær vildu fá skýringu á því og fleiru. Þórunn sagði þeim að afkasta þá minna ef þær fengju svona lítið borgað!

Eftir nokkrar fyrirspurnir kallaðar utan úr salnum, fór fram atkvæðagreiðsla. Meirihluti hópsins samþykkti samningana eftir þrumandi ræðu hjá Þórunni, þar sem hún mæltist til þess að við samþykktum. Eftir að hún hafði spurt hvort nokkur mótatkvæði væru, rétti 21 kona upp hendi. Þórunn virtist ekki trúa sínum eigin augum og spurði okkur hvort við værum örugglega félagskonur!!! Þetta sagði hún blákalt, þó svo hún þekkti meirihluta þeirra í útliti. Hvar er þetta svokallaða "lýðræði"? Eigum við aðeins að samþykkja vegna þess að við erum félagskonur og formaðurinn vill að við gerum það?

Fundi var síðan slitið í snarhasti, án þess að við fengjum tóm til að tala fyrir okkar málstað.

Verkakona.

## Það er munur að sitja í Róm!

Nú hefur bensínlítrinn hækkað um 8 kr. hver lítri. Þessi hækkun er öldungis óbætt, enda gengur "verðbótavísitala" ASÍ-forystunnar ekki í samband fyrr en 1. sept. Olíufélögin fá 1.98 kr. af hverjum lítra bensíns eftir hækkunin til þess að bæta fyrir aukinn reksturskostnað.

Þeir auðhringar eiga sína fulltrúa í Sjálfstæðis- og Framsóknarflokki og tapa ekki einni krónu á verðbólgunni. En skyldi verkafólk á sama hátt geta farið fram á bætur vegna aukins reksturskostnaðar heimila sinna?!! Að sjálfsögðu ekki - ekki heldur þegar "vinstri"-stjórnir sitja, enda gerði síðasta "vinstri" stjórn nákvæmlega hið sama: hækkaði bensínverð til að hygla einokunarauðvaldinu. Það er því nokkur aðstöðumunur fólginn í því að vera auðherra í bensínbraski eða"sósíalískur" ráðherra annars vegar, og alþýðumaður hins vegar! Verkafólk verður að berjast fyrir hverri krónu, en hinir njóta stöðu sinnar og valda.

———0———

ASÍ-forystan lagði til að tóbak og áfengi skyldi ekki talið með í sinni fölsku verðbótavísitölu, sem hún stöðugt hampar framan í landslýð. Atvinnurekendur og ríkisvaldið tóku þessu fagnandi. Og hvað gerðist?

Jú, sígarettupakkinn hækkar úr 250 í 325 krónur og áfengi um 20% til að greiða fyrirsjáanlegan halla á ákveðnum lið fjárlaga. Sniðugt kauprán - svo sannanlega!

En það er vissulega gott að vera ASÍ-páfi með lífvænleg laun og hreykja sér hátt. Munur á því og kjörum alþýðu, sem "ætti að skammast sín og hætta að reykja og drekka", segja ASÍ-páfarnir. Já, það er munur að sitja í Róm!

Lesandi í Reykjavík.

## 75 ára endurskoðunarsinni

Ókrýndur konungur íslenskra endurskoðunarsinna, Einar Olgeirsson, varð 75 ára 14. ágúst og í tilefni þess birti Þjóðviljinn langt viðtal við hann, þar sem Einar lítur yfir veginn að baki sér. Einar átti drjúgan þátt í sigri endurskoðunarstefnunnar í gamla Kommúnistaflokki Íslands og segir hann að KFÍ hafi átt um skeið við erfiðleika að stríða sem kallaðir hafi verið "barnasjúkdómur". "En 1934 tókum við upp mjög víðfemna samfylkingarstefnu og gættum þess vandlega að hún sveigði hvorki til hægri eða vinstri" ("samfylkingarstefna" sú sem hann talar um, fólst ekki í því samfylkja alþýðu á grundvelli baráttukrafna gegn auðvaldi og fasisma; heldheldur fólst hún í því að útþynna pólitík kommúnistanna, setja endurbótastefnu og atkvæðasmölun í stað byltingarbaráttu og baráttu fyrir kröfum dagsins).

Eins og fram kemur í glefsum sem við birtum hér úr Þjóðviljaviðtalinu við Einar, átti hann sinn þátt í að koma löppunum undir "lágkúrulega" borgarastéttina á Íslandi eftir styrjöldina. Hann hjálpaði við að útdeila stríðsgróðanum á milli útgerðarjöfranna og er bara drjúgur yfir árangrinum! Verkalýðsblaðið væntir þess að Landssamband ísl. útgerðarmanna og Vinnuveitendasambandið ha'i munað eftir velgjörðamanni sínum á afmælisdaginn og sent honum eitthvað huggulegt að gjöf. Hann hefði að minnsta kosti átt það skilið!



Á þessum tíma hafði myndast
trúnaðartraust milli okkar
Ólafs og hann sagði við mig þegar
málið var komið á úrslitastig:
„Einar, ef við komum þessu máli
í gegn verðum við gæfumenn í Ís-
landssögunni."

Meðan á þessum átökum stóð
minntist ég á það við Bjarna
Benediktsson hversu nauðsynlegt
það væri að mynda nýsköpunar-
stjórn í kjölfar lýðveldisstofnun-
arinnar. Bjarni sagði, að hann
hefði sjálfur fulllítið vit á efna-
hagsmálum til þess að ræða þessa
hugmynd að gagni og lagði til að
ég talaði við Ólaf Thors. Við Ólaf-
ur ræddum síðan saman og hann
féllst á þessa hugmynd okkar í
meginatriðum.

Eitt hið fyrsta sem nýsköpun-
arráð ákvað var að láta smíða 30
nýsköpunartogara í Engl., full-
komnustu skip sem þá var kostur
á með dísilvélum. Þá kom í ljós
að atvinnurekendastéttin ís-
lenska var afar lágkúruleg. Við
kölluðum fulltrúa Félags ís-
lenskra botnvörpuskipaeigenda
til okkar og spurðum hvað þeir
vildu marga togara.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ — ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)

Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

LAUGAVEGI 178, 2. HÆÐ
POSTHÓLF 5186, REYKJAVÍK
SÍMI 84210 - 35904

Gerist áskrifendur

Stuðningsáskrift: kr 2500 Ársáskrift: kr. 1500
Hálfársáskrift: kr. 800

Áskrift greiðist á gíró 12200 -9

# Ásmundur ASÍ-hagfr. Stefánsson: Vill efla „skrifstofubákn" ASÍ!

Einn áberandi aðili "sérfræðinga"fargansins í kjarasamningum síðari ára er Ásmundur Stefánsson, hagfræðingur Alþýðusambands Íslands. Hann er ekki í formlegri stjórn ASÍ, en er engu að síður mikilvægur hluti hinnar eiginlegu ASÍ-forystu, hefur enda víðtæk völd og áhrif á ýmsum sviðum - bæði í verkalýðshreyfingunni, ríkisbákninu og víðar.



Hlutverkið sem alþýða manna þekki hann hvað best í, er það að sitja í svitakófi yfir pappírshlöðum og reyna að útbúa flóknar talnarunur til að sannfæra verkalýð um ágæti smánar-kjarasamninga ASÍ-forystunnar við atvinnurekendur. Raunverulegt markmið Ásm. með reiknistokknum er það að slá ryki í augu alþýðu til að vernda gróða atvinnurekenda, og atvinnurekendur, jafnt sem ASÍ-forystan horfa með velþóknun á hann vinna verk sitt.

Hér skulu ekki tíunduð "afrek" hagfræðingsins á sviði falss og blekkinga, en ætlunin er að leggja fram fróðlegan lista (trúlega ekki tæmandi) yfir nokkra athyglisverða bitlinga Ásmundar í kerfinu - svona til að benda á að svik hans við verkalýð eru ekki tilviljunin ein, fremur en gerist hjá fleiri ASÍ-leiðtogum, heldur rökrétt afleiðing stöðu hans og valda í auðvaldskerfinu. Hann er því gott dæmi til að sýna fram á, að í forystu verkalýðshreyfingarinnar sitja menn sem eiga ekkert sameiginlegt með verkalýðsstéttinni Í raun tilheyra þeir höfuðandstæðingnum: borgarastéttinni.

"HAGFRÆÐIRÁÐGJÖF"

1. Aðalstarfið er "hagfræðiráðgjöf" hjá ASÍ: að klæða stéttasamvinnu ASÍ-broddanna í sannfærandi talnabúning.

2. Fulltrúi ASÍ í "verðbólgunefnd" - skipaðri af ríkisstjórn Geirs H. til að leggja bakstra við verðbólguna (m.ö.o. til ráðgjafar um hvernig megi velta kreppu auðvaldsþjóðfélagsins á sem hagkvæmastan hátt yfir á herðar verkafólks!).

3. Fulltrúi ASÍ í "kauplagsnefnd". Kauplagsnefnd starfar samkvæmt lögum nr. 1/1959 um "niðurfærslu verðlags og launa. Verkefnið er að reikna út vísitölu framfærslukostnaðar, kaupgreiðsluvísitölu o.fl. Hagstofan annast alla sérfræðilega aðstoð við nefndina. Hæstiréttur skipar formann hennar".

4. Fulltrúi ASÍ í nefnd til endurskoðunar laga um Framleiðsluráð landbúnaðarins.

Einnig hefur Ásmundur setið í eftirtöldum nefndum (sumar a.m.k. hafa lokið störfum):

5. Nefnd til undirbúnings iðnþróunarráðstefnu.

6. Nefnd til að endurskoða lög um orlof.

STJÓRNUNARFÉLAGIÐ OG ALÞÝÐUBANDALAGIÐ

En hagfræðingurinn hefur ekki aðeins látið til sín taka í nefndum á vegum ASÍ-báknsins. Hann hefur líka þreifað á púlsi pólitíkur og "frjálsrar félagsstarfsemi".

Annars vegar situr hann í stjórn Alþýðubandalagsdeildarinnar í Breiðholti og átti sinn þátt í góðlátlegu glefsi og gjammi deildarinnar út í flokksforystu AB í vor - í því skyni að afla sér virðingar og metorða fyrir flokkinn (e.t.v. sér hann þingsætið í hillingum?).

Breiðholtsdeildin komst í sviðsljósið í vor, þegar hún sendi frá sér flugrit sem innihélt gagnrýni á "menntamannatilhneigingar" í Alþýðubandalaginu (!) og var haldinn opinn fundur um starfsemi flokksins. Þá er Ásmundur sagður eiga sér þann draum að Alþýðubandalagið verði "alvöru-sósíalískur-flokkur" og fari að starfa í sellum, eins og Moskvudindlarnir í franska "kommúnistaflokknum" eru sagðir gera.

Þá skal síðast en ekki síst telja embætti Ásmundar Stefánssonar í Stjórnunarfélagi Íslands, en það er hagræðingarsamkunda burgeisa og leppa þeirra í verkalýðshreyfingu, embættismannakerfi og víðar. Formaður Stjórnunarfélagsins er sjálfur Ragnar S. Halldórsson, forstjóri Álversins í Straumsvík - einn af oddvitum "andstæðinga" Ásmundar í hverjum kjarasamningum. Ásmundur sjálfur hefur með höndum embætti fræðslustjóra SFÍ og lappar þannig upp á hugmyndafræðiauðgi arðræningjanna.

Stjórnunarfélagið hélt mikla ráðstefnu um "gerð kjarasamninga" í jan. s.l. í Ölfusborgum og báru þar saman bækur sínar ASÍ-broddarnir, embættismenn, pólitíkusar og burgeisar. Þar flutti Ásmundur m.a. boðskap og getum við ekki stillt okkur um að endurprenta glefsur úr honum - athugasemdir eru óþarfar!:

"Samráð stjórnvalda við aðila vinnumarkaðarins er í dag mikið gerfimál og sýndarmennska. Þegar gengið er fellt, kallar Geir á fulltrúa og segir: "Jæja, strákar, ég ætlaði bara að segja ykkur, að við erum að fella gengið, verið þið sælir". Sjónvarpið kemur og myndar og alþjóð er gefin sú tilfinning að við höfum verið með í ráðum. Það sem gerst hefur, er að sökinni hefur verið dreift....... Mitt mat er að hér þurfi að þrýsta á. En þá þarf jafnframt að bæta starfsaðstöðuna og þar sem raunhæft samráð hefur mikið gildi fyrir stjórnvöld, er eðlilegt að þau standi undir þeim kostnaði, sem af því leiðir. Ég tel að efla þurfi "skrifstofubáknið" (Undirstr. Vbl.).

Ég tel að við eigum að taka beinan þátt í stjórnsýslustörfum, ....við eigum að hafa víðtæka stjórnaraðild í stofnunum, nefndum og ráðum....Sú spurning kann að vakna, hvort aðild okkar að ákvörðunum og stjórnsýslu ógni þingræðinu. Ég held ekki. Við yfirtökum ekki vald alþingis eða ríkisstjórnar, fáum einungis áhrif á afmörkuðum sviðum, sem skipta okkur það miklu, að ábyrg staða er trygg, af okkar hálfu....." (Undirstr. Vbl.).

Svo mörg voru þau orð, og þau hrópa aðeins á eitt: harða og óvægna baráttu verkalýðs gegn fulltrúum borgarastéttarinnar í verkalýðshreyfingunni. Verkalýðsbaráttan, hvort sem er fagleg eða pólitísk, mun aldrei skila raunhæfum árangri nema barist sé gegn ítökum / áhrifum atvinnurekenda og ríkisvalds í röðum verkafólks.

NIÐUR MEÐ STÉTTASAMVINNUSTEFNU!
EINING Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTU!

# Mikilvægur...

Framhald af forsíðu.

En þetta er raunar ekkert einsdæmi, því að ég best veit hefur ekki verið haldinn fundur í Fél. járniðnaðarnema um kjarasamninga síðan 1974!

34-45% HÆKKUN

- Hvers vegna tölduð þið nú vera grundvöll fyrir eigin baráttu ykkar í Landssmiðju?

- Jú, það er víða skortur á járniðnaðarmönnum og trúlega fleiri iðnaðarmönnum og þetta ástand tel ég að iðnnemar eigi hiklaust að nota sér til að knýja fram kjarabætur. Við í Landssmiðjunni lögðum fram kröfu um 10% hækkun kaups okkar ofan á ASÍ-samkomulagið frá í júní. Forstjórinn lagði fram tilboð á móti sem við gerðum athugasemdir við og féllst hann á þær, allar nema eina: "á fjórða ári og að loknum 3ja áfanga iðnskóla, hækki kaup í 5 ára taxta sveina". Við náum þessu bara í gegn næst!

- Og 10% hækkunin hefur þá náðst í gegn?

- Já, og meira til. Almennt hækkaði kaup iðnnema um ca. 20% við ASÍ-samningana, en við náðum fram 34-45% hækkun yfir línuna - þ.e. miðað við kaup fyrir júní-samningana. Sérstaklega hækkaði kaup 1., 2. og 3. árs nema, en kaup 4. árs nema stóð í stað.

- Að lokum?

- Aðeins það að undirstrika að iðnnemar eiga að nota þær aðstæður vel sem nú eru ríkjandi og berjast fyrir kjarabótum. En það að ná fram kjarabótum á einstaka vinnustöðum er aðeins eitt af því sem við þurfum að gera. Við þurfum einnig að endurreisa okkar stéttarfélög sem raunveruleg baráttutæki iðnnema og koma þeim undan pilsfaldi svikullar forystu ASÍ. Án ötullar baráttu gegn undanslætti og stéttasamvinnu vinnst aldrei raunverulegur sigur!

# Lærum af Heklu málinu!

Í júlí og byrjun ágúst urðu talsverð blaðaskrif vegna brottreksturs hótelstjóra Hótels Heklu í Reykjavík á 4 starfsmönnum fyrirtækisins, en þeir höfðu áður mótmælt harðlega útreikningum á launum sínum, aðbúnaði o.fl. Mál þetta mun ekki rakið hér frekar, enda ekki mögulegt að sinna beinum fréttaflutningi að nokkru marki í mánaðarblaði, eins og Vbl. er. Hins vegar er mikilvægt að meta Heklu-málið og draga af því lærdóma, ekki síst þar sem launafyrirkomulagið sem í gildi er á Heklu - þ.e. prósentuskipting innkomu + kostnaðar á milli allra starfsmanna - er í gildi á Eddu-hótelunum um land allt og á mörgum þeirra hefur komið til árekstra vegna þessa fyrirkomulags.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ bendir á eftirfarandi varðandi Heklumálið:

1. Starfsliðið gerði samning um laun, sem eru ofan við lágmarkstaxta viðkomandi verkalýðsfélags (Fél. starfsfólks í veitingahúsum), án afskipta félagsins. Samningurinn var hins vegar munnlegur og því gat FSV aðeins stutt kröfur um lágmarkslaun skv. töxtum, en ekki beitt sér til fulls gegn kaupránstilraunum hótelstjórans.

2. Starfsliðið á Heklu virðist lítt hafa haft afskipti af sínu verkalýðsfélagi, ekki fyrr en út í hörkuna var komið - slíkt er auðvitað síður en svo einsdæmi, en ætti að vera skýr vísbending um mikilvægi þess að starfa á virkan hátt innan eigin verkalýðsfélaga og vinna þau yfir á raunverulega baráttulínu. Þannig verða þau ósigrandi vopn í kjarabaráttu.

En hvað um það: félagarnir á Hótel Heklu hafa hleypt af startskotinu - misst starfið fyrir vikið - og fleiri munu fylgja á eftir og berjast gegn tilraunum hótelrekenda við að klípa af launum starfsfólks og koma þeim jafnvel niður fyrir löglega taxta um lágmarkslaun.

# „Launajöfnunarstefnan" og samflotið: KAUPBINDING!

Nú hafa kjarasamningar sjómanna verið undirritaðir og sýnir niðurstaða þeirra ljóslega hvert stefnir í málum ísl. verkalýðshreyfingar í dag. Æðstu páfar ASÍ ásamt sambandsforystu atvinnurekenda hafa markað þá stefnu sem kallast "launajöfnunarstefna", en sem þýðir í raun kaupbindingarstefna. Nú síðast voru það sjómannasamningarnir sem felldir voru inn í rammann sem ASÍ- & VSÍ-páfarnir hafa smíðað.

Æðstu toppar verkalýðshreyfingarinnar sjá um að framfylgja kaupbindingarstefnunni fyrir ísl. auðvaldið. Meginþorri verkalýðs fær nú að kynnast þessari stefnu undir dulnefninu "launajöfnunarstefna" - en inntakið er að svokallaður rammasamningur ASÍ og VSÍ skuli gilda fyrir launþega í öllum stærstu atvinnugreinum.

SVIÐSETNING

Leikurinn hefst með lokuðum ráðstefnum milli æðstu manna samtakanna, þar sem meginlínur eru lagðar - en verkafólk frétt ir lítt af þessum samkomum. Síðan hefjast ASÍ-topparnir handa við að sanka að sér umboðum frá hinum einstöku félögum (reyndar hafa þeir nú orðið ekki alltaf fyrir því að afla umboða; þeir telja sig hafa það óumbeðið), útkoman er hið svokallaða "samflot".

KRÖFURNAR SVIKNAR

Kröfur ASÍ-samflotsins eru því næst mótaðar og komið á framfæri. En eins og reynslan sýnir, þá hafa þær lítið gildi þar sem ákvarðanirnar hafa þá þegar verið teknar bak við tjöldin af "ábyrgri verkalýðsforystu" og leiðtogum atvinnurekenda. Bæði krafan um 30% kauphækkun 1976 og 100 þús. kr. krafan frá í ár eru sviknar. Samflotið nýtur dyggilegs stuðnings burgeisanna, þar sem það auðveldar þeim leikinn; það gerir þeim kleyft að koma kaupbindingunni á. Eftir nokkuð þref undir handleiðslu "sáttasemjara" (sem er ekkert annað en einn burgeisanna) er rammasamningur undirritaður og sendur út í félögin til samþykktar. Þar kynna forystumenn hann verkafólki "sem hið mesta mögulega sem hægt var að ná við þessar aðstæður" o.s.frv. Allt þetta sjónarspil er gert til þess að ná settu marki ASÍ-toppanna og burgeisanna: alger miðstýring kjaramála í höndum örfárra manna. Miðstýring gerir þeim leikinn léttari - þeir ætla að svipta verkalýðinn öllum rétti til að hafa afskipti af sínum eigin kjaramálum! "Launajöfnunarstefnan" er liður í þessari ætlan burgeisanna!

Frh. af forsíðu

ÞAÐ SAXAST Á 18 ÞÚSUNDIN

Það liggur í augum uppi, að verkafólk og þorri vinnandi fólks lifir ekki af 8 stunda vinnudegi. Það liggur einnig í augum uppi að sérhver launahækkun er tekin af hagnaði atvinnurekandans. Vinnandi fólk berst því fyrir því að skerða gróða atvinnurekenda, bæta hag sinn, en auðherrarnir berjast hins vegar fyrir því að halda hagnaði sínum og auka hann. Í stéttabaráttunni birtast þessi átök sem ósættanlegar andstæður milli tveggja aðalstéttanna í þjóðfélaginu, verkalýðs og auðstéttar. Á Íslandi hefur sú síðartalda þjóðfélagsvöldin, ríkisvaldið er hennar hver svo sem ríkisstjórnin er. Eina bjargráð auðstéttarinnar eftir launahækkun er að neyta aðstöðu sinnar og hækka vísvitandi verð á vöru og þjónustu svo henni auðnist að fá milljarðana aftur sem fóru í launahækkanirnar. Þetta er sannleikurinn um "víxlhækkun kaupgjalds og verðlags".

Verkalýðurinn er að bæta sér upp verðhækkanir á tímabilinu áður en kjarasamningar eru gerðir, en atvinnurekendur eru að bæta sér upp þá launahækkun og hækka verð eftir að laun hafa verið hækkuð. Þannig koll af kolli. Af þessu má sjá að verðhækkun er hvorki "óhjákvæmileg" né launahækkun "verðbólguvaldur".

Verðbólgan liggur í sjálfu arðránsskipulaginu og er vísvitandi látin éta upp laun vinnandi fólks. Hefði verkalýðurinn og annað vinnandi fólk á Íslandi þjóðfélagsvöldin, yrðu engar verðhækkanir, því sívaxandi gróði einstaklinga væri úr sögunni. En ekki dugar að bíða eftir sósíalismanum, því hægt er að þvinga fram minni verðhækkanir, jafnvel verðstöðvun í vissan tíma. Baráttan er háð því að kröfur séu settar fram og stéttarfélög, hópar innan þeirra og önnur fjöldasamtök láti síðan til sín taka með skyndiverkföllum, mótmælaaðgerðum og öðrum aðgerðum.

Framhald af bls. 2

HVAÐ ÓTTAST MIÐNEFND SH?

þess að þau hafa þverbrotið samfylkingarhefðir. Fundur SH getur aldrei orðið annað en almenn viljayfirlýsing um samúð með baráttu Tékka og Slóvaka. Jafnvel þetta nægir ekki til að Þjóðviljinn vekji athygli á fundi SH!!! 21. ág.-nefndin samþykkti að hvetja félaga sína og stuðningsfólk að taka þátt í aðgerðum SH þrátt fyrir framkomu nefndarinnar.